# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga. gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

16. árg. WINNIPEG, ÁGÚST 1901. Nr. 6.

## Þjónustusemin.

Prédikan við kirkjuþings byrjan á Gimli, Man., 25. Júní 1901.
Eftir séra Björn B. Jónsson.

Texti: Jóh. 13, 1—17.

Í æfisögu drottins vors Jesú Krists eins og hún er skráð af Jóhannesi guðspjallamanni í kapítulanum næsta á undan þeim, sem prédikunartexti vor er úr tekinn, er skýrt frá ofsóknum þeim, er Jesús varð að þola af óvinum sínum. Þeir hafa nú bundizt fastmælum sín á meðal um að ráða hann af dögum. Allan starfstíma sinn hafði Jesús átt í stríði. Hann hafði verið eltr og ofsóttr, hvar sem hann fór. Og því lengr sem leið, því ákveðnari urðu ofsóknirnar. Með byrjan þess kapítula, sem textinn er úr, víkr sagan frá þessu stríði við hina heiftarfullu óvini úti í borginni, og sögustaðrinn er hinn friðsami griðastaðr, þar sem Jesús var einn með postulum sínum síðustu stundirnar áðr en hann gekk út í píslirnar. Það er róleg stund, þetta. Hávaði heimsins nær ekki þarna inn í borðsalinn til þeirra. Hér fær meistarinn tóm til að kveðja hina kæru vini sína í kyrrþey. Aldrei hafði hann talað eins hjartanlega við þá og nú á skilnaðarstundinni. Hann innsetr við þetta tœkifœri sakrament líkamans og blóðsins sem heilagan samtengingarþátt milli sín sjálfs og læri-

sveina sinna æfinlega. Og við þetta tækifæri kennir hann þeim hverja lexíuna annarri þýðingarmeiri, sem þeim skuli verða til leiðbeiningar og blessunar eftir að hann er burt farinn.

Á þeirri páskahátíð, sem nú var byrjuð, átti Jesús að láta líf sitt sem hið sanna páskalamb. Stundin var komin, að hann átti að fara úr heimi þessum og hverfa aftr heim til hins himneska föður síns. Þetta vissi Jesús, eins og hann líka vissi, að faðirinn hafði gefið alla hluti á hans vald og að hann var frá guði kominn og fór til guðs. En mitt í þessum hugsunum stendr hann upp frá kvöldmáltíðarborðinu, leggr af sér ytri klæði sín, tekr vatn í ílát og handklæði og fer og þvær fœtr lærisveinanna og þerrar þá á handklæðinu. Hann hefir fyrir augunum guðdómlega tign og vegsemd sína, en tekr þó af eigin fúsum vilja að sér þetta verk, að þjóna lærisveinunum.

Verk þetta, sem hér um rœðir, fótaþvottrinn, var sjálfsagðr siðr í þeim löndum í hvert sinn, sem menn komu saman eða gengu að máltíð. Menn gengu þar að mestu leyti berfœttir, höfðu að eins ilskó á fótum, og var því þörf að þvo fœtr gesta. Hver húsráðandi sá um, að við höndina væri þjónar (þrælar), er það hlutverk höfðu, að þvo fœtr þeirra, sem til borðs gengu. Þetta þótti mjög auðvirðilegt verk og var venjulega ætlað hinum lægstu þjónum.

Jesús hafði falið þeim Jóhannesi og Pétri að undirbúa og annast samsætið þetta kvöld — skírdagskvöld. Á þeim lá því sú skylda, að sjá um fótaþvottinn eins og annað. Ef þeir ekki gátu útvegað neinn þjónustumann til að vera viðstaddr og vinna þetta verk, bar þeim að gjöra það sjálfum, eða þá semja við einhvern hinna postulanna um að taka það að sér. En nú sést af því, sem segir í 22. kap. hjá Lúkasi, að hvorki Pétr né Jóhannes, né neinn hinna postulanna, hafði verið fáanlegr til að lítillækka sig svo, að þeir tœki að sér að þjóna hinum. Og um þetta hefst kapprœða á meðal þeirra. Þeir tóku að deila um það, hver væri mestr og hver væri minnstr, og kom þar hjá þeim í ljós hinn almenni löstr, stœrilætið; því

enn þá voru postularnir svo lítið þroskaðir að skilningi og helgan hjartans.

En Jesús stendr þá upp og tekr til máls á þessa leið: ,,Brœðr, þannig á þetta ekki að vera meðal yðar; sá, sem er mestr yðar á meðal, á að vera eins og hinn minnsti, og sá, sem yfirráðin hefir, eins og þjónn hinna.''—Og til þess að þeir skyldi sjá þetta og skilja og aldrei gleyma því, þá kraup hann sjálfr niðr og þó fœtr þeirra.

Skiljanlegt er það, að þeir allir hafi auðmýkzt og sneypzt við þessa áminning. En allir þegja þeir þó nema Pétr. Hann er ör að vanda og getr ekki stillt sig um að mótmæla þessu. Svo auðmýkjanda finnst honum þetta verk vera fyrir meistarann og óþolanda að láta hann vinna það, að hann þvertekr það með öllu, að hann láti Jesúm þvo sína fœtr. — ,,Pétr, ef eg fæ ekki að þvo fœtr þína, þá erum við skildir að skiftum'', segir Jesús þá, með þeirri stilling og alvöru, að Pétr lét sér óðar segjast. Og með því hann nú óttaðist, að hann hefði styggt meistara sinn, varð hann aftr jafn-ákafr með að fá sig þveginn, eins og hann áðr hafði verið ákveðinn í að láta ekki þvo sig.

Svo settist Jesús til borðs aftr og tók til að leggja út af þessari athöfn sinni í samtalinu við postulana. ,,Skiljið þér, hvað eg hefi gjört við yðr?'' spyr hann. Hann skýrir þeim frá, að þetta hafi hann fyrst og fremst gjört þeim til eftirdœmis. ,,Ef eg þá, meistarinn og herrann, hefi þvegið yðar fœtr, þá eigið þér og að þvo hver annars fœtr; því eg gaf yðr eftirdœmi, svo að þér breytið eins og eg breytti við yðr.'' Kristr hafði ,,elskað sína allt til enda'',—og fótaþvottrinn var vottr þeirrar elsku. Á þennan kærleik vill hann minna þá að skilnaði, og kenna þeim líka, hvernig þeir eigi að elskast. Fótaþvottrinn var verkleg útskýring á því nýja boðorði, sem hann gaf þeim, að þeir elski hver annan, eins og hann hafi elskað þá. Hann vildi með þessu dœmi kenna það, að kærleikr lærisveina sinna, kristinna manna, á að vera fús til að þjóna hverjum bróður með orði og verki, og að sá kærleikr má ekki láta letjast, þótt þjónustan sé fólgin í því að vinna hin óvirðulegustu, algengustu og jafnvel ógeðfelldustu verk, þegar þess

gjörist þörf. En jafnframt því, að brœðrnir eiga að vera fúsir til að þjóna hver öðrum í öllu, sem lýtr að ytri lífskjörum þeirra, eiga þeir einnig að vera að sama skapi fúsir að hjálpa og þjóna hver öðrum í andlegri merking á þann hátt, sem Páll postuli talar um í bréfinu til Galata: ,,Góðir brœðr, verði nokkur fundinn að einhverri synd, þá leiðréttið þér, sem andlegir eruð, hann með hógværðar anda. Berið hver annars byrði og uppfyllið þannig Krists lögmál" (Gal. 6, 1—2). En slík þjónusta getr þá einungis átt sér stað, þegar maðr er búinn að eignast þann anda, sem Jesús á við, þegar hann segir: ,,Hver yðar, sem vill vera fremstr, hann sé síðastr allra og allra hinna þjónn" (Mark. 9, 34).

En fótaþvottr þessi hafði líka enn þá dýpri þýðing, enn víðtœkari merking. Í samtali þeirra Jesú og Pétrs kemr í ljós, hvað verk þetta táknar í fullkomnustu merking. Ekkert orð Jesú Krists og ekkert kærleiksverk hans miðaði fyrst og fremst að því, að stofna dýrðlegt ríki fyrir augum manna eða flytja til eyrna manna vísdómsfulla heimspekis-lærdóma, heldr miðuðu þau öll að því einu, að *hreinsa hjörtu mannanna af syndinni*. En það, að Jesús þvær af manni syndina og hreinsar mann, útheimtir af hans hálfu hina mestu auðmýkt og niðrlæging, enn þá meiri niðrlæging en það, þegar hann á skírdagskvöld kraup niðr til að þvo fœtr postulanna. Þetta verk hans á skírdagskvöld var tákn þess *blóðþvottar*, er hann þó alla trúaða menn daginn eftir, þegar það varð öllum ljóst, að ,,mannsins sonr kom ekki til þess að láta sér þjóna, heldr til að þjóna öðrum og láta líf sitt til lausnargjalds fyrir marga."—,,Blóð Jesú Krists, guðs sonar, hreinsar oss af allri synd"—segir Jóhannes postuli. Og það var sú hugsan, sem fólgin var í þessum alvarlegu orðum, er Jesús mælti við Pétr: ,,Ef eg fæ ekki að þvo fœtr þína, þá erum við skildir að skiftum", eða nákvæmar útlagt: ,,þá hefir þú enga hlutdeild í mér." Það, að eiga hlutdeild í frelsaranum, er sama sem að vera meðeigandi með honum að himnaríki og eilífri sælu; en til þess þarf maðr að vera þveginn af Jesú. Sáluhjálpin er einmitt þessi mikla sálarreynsla: Jesús hefir þvegið og hreinsað mig. Enginn, sem ekki er þveginn í Jesú blóði af synd

sinni, á hlutdeild í Jesú. Og sá þvottr má aldrei hætta, því daglega þarf maðr að láta Jesúm lauga sig, svo maðr verði hreinn af hinum daglegu syndum sínum.

* * *

Vinir og brœðr! Í dag erum vér, lærisveinar Jesú, saman komnir í þessu húsi. Laugaðir höfum vér væntanlega allir verið í blóði Jesú fyrir trúna og þvegnir hreinir af syndum vorum. Mér finnst þessi hátíðlega stund að sumu leyti ekki ólík skírdagskvöldinu forðum í Jerúsalem. Víst erum vér hér allir saman komnir til þess í einum huga að neyta páskalambsins, sem vor vegna er slátrað, og setjast hér sem lærisveinar við kvöldmáltíðarborð drottins. Og víst efar enginn af oss það, að meistarinn sé hér hjá oss. Vér vitum, að hann er hér í húsinu hjá oss og verðr hjá oss við máltíðina, eins og hann hefir sjálfr sagt: ,,Sjá, eg er með yðr alla daga allt til enda veraldarinnar'', og með tilliti til sakramentisins: ,,Þetta er *minn* líkami, og þetta er *mitt* blóð.'' Og með því vér allir erum óhreinir, ekki einungis hið ytra í orðum og athöfnum, heldr og hið innra í hugsunum og girndum, þá er oss, ekki síðr en postulunum forðum, þörf á því, að vér séum þvegnir. Og hér er enginn, sem getr þvegið oss nema drottinn Jesús. En hann er hér líka áreiðanlega staddr og gengr hér fyrir hvern einstakan mann og býðr að lauga oss alla í lind náðar sinnar og þerra os með líndúk kærleiks síns. — Oss fannst það mikilsvert og dásamlegt, að Jesús skyldi svo lítillækka sig, að hann laugaði fœtr postulanna, þegar enginn annar vildi verða til þess. En hversu miklu meira og óskiljanlegra er þó það kærleiksundr, að hann hefir kropið niðr til að þvo syndina af mönnunum, og krýpr hér enn við saurugar sálir vorar og býðst til að þvo þær hreinar af allri synd, svo þær verði hvítar sem snjór. Áræði enginn, hversu auðmýkjanda sem það kann að virðast fyrir stœrilátan hugsunarhátt vorn, að banna Jesú að þvo sig, eins og Pétr gjörði í fyrstu. Biðjum hann heldr að þvo bæði höfuð og hendr, svo allt, sem vér hér hugsum og gjörum, verði hreint og réttlátt.

Og þegar vér svo setjumst hér saman á bekki, vér lærisveinar Jesú, sem hingað erum komnir frá mörgum söfn-

uðum, til að halda kirkjuþing og ræða velferðarmál hinnar heilögu kirkju vorrar, þá þekki eg enga mynd, sem eg fremr kýs að setja fyrir augu vor en myndina af drottni vorum Jesú Kristi, þar sem hann krýpr niðr til að þvo fætr lærisveina sinna. Mynd meistarans þarf ávallt að vera fyrir augum vor lærisveinanna. Og myndina af honum einmitt við það tækifæri, þegar hann er með mestu lítillæti að þjóna öðrum, þurfum vér allir þessa daga um fram allt að hafa fyrir augunum; fyrst og fremst vegna þess, að sú mynd er skýrasta mynd, sem til er, bæði af Kristi sjálfum og kristindóminum. Kristr var um fram allt þjónn meðan hann dvaldi hér á jörðinni, og allar kenningar hans miðuðu að því, að kenna mönnunum *að þjóna*. Um fram allt einkennist Jesús ávallt af þeim hreina og hógværa þjónustu-anda, sem í honum bjó. Frá æsku, þá er hann fór með foreldrum sínum til Jerúsalem, var hann hlýðinn. Fram í dauðann, já, fram í dauðann á krossinum, lítillækkaði hann sig og var hlýðinn. Allt líf hans var opinberan kærleika, sjálfsafneitunar og þjónustusemi. Og allr kristindómrinn, að því er siðferðis-kenningar hans snertir, stefnir að því, að kenna mönnum þjónustusemina, kenna mönnum að elskast og vinna að hver annars heill. Kristindómrinn kennir játendum sínum þá íþrótt *að krjúpa á kné*. Hann kennir þeim að lúta lágt, lúta niðr að aumingjunum og hinum ógæfusömu og þjóna þeim alúðlega, bróðurlega, án allra spurninga, án allra ónota. Að svo miklu leyti, sem oss er af kristindóminum leyft að reyna að verða miklir menn, þá er oss kennt, að það getum vér einungis orðið fyrir það að *þjóna mikið*. Þá fyrst er maðrinn orðinn ,,mikill", þegar hann getr með barnslegu hjarta sungið barnasálminn:

,,Sá er mestr, sem er *beztr*,
sannarlega það er hann."

Hið æðsta takmark frá sjónarmiði kristindómsins er það, að geta orðið svo auðmjúkr og kærleiksríkr, að maðr geti lagzt niðr að fótum sem flestra annarra manna til að þjóna þeim.

Og að þessi sami þjónustu-andi, sem á að búa í oss, lærisveinum Krists, hér á jörðinni, sé einnig sá andi, er ríkir í bústöðum þeirra vera, sem æðri eru og fullkomnari en vér

mennirnir, er oss gefið í skyn með því, sem í guðs orði er minnzt á englana, svo sem t. a. m. þegar sagt er um þá: ,,Eru þeir ekki allir þjónustubundnir andar, sem sendir eru í þeirra þarfir, sem eiga sáluhjálpina að erfa?" Og bendir þá allt þetta, líf Jesú sjálfs, athafnir góðu englanna og líferni allra þeirra manna, sem helgastir hafa verið hér á jörðunni, á það, að fullkomnan lífsins eftir dauðann sé einmitt fólgin í gleðilegri, sælurríkri þjónustu á miklu æðri og fullkomnari hátt en vér enn þá megnum að inna af hendi, að sæla vor í öðru lífi verði fólgin í því að mega vinna í félagi við guð og alla góða anda að öllu því, sem heilagt er og gott, og að líf vort hér sé þá að tilætlan drottins að eins skólaganga til undirbúnings undir meira starf og fullkomnari þjónustu í paradís.

Í öðru lagi finnst mér brýn nauðsyn bera til þess, að vér nú í kirkjuþings byrjan setjum oss fyrir sjónir hinn heilaga meistara vorn í þjónsmynd hans, vegna þess að eg fæ ekki betr séð en að flestar kirkjulegar syndir vorar sé sprottnar af því, að vér höfum ekki nógu vel lært lexíu þjónustuseminnar, sem Jesús kenndi lærisveinum sínum á skírdagskvöld og með öllu lífi sínu.

Vér erum hér í dag komnir saman á þeim stað, þar sem vagga hins vestr-íslenzka kirkjulífs stóð fyrir nær því fjórðungi aldar, og í dag hefst hér hið seytjánda ársþing kirkjufélags vors. Saga vor er enn ekki löng og dagar vorir enn ekki margir. Þó er af liðna tímanum ótal margt að læra, og því að eins getum vér búizt við meiri velgengni í framtíðinni, að vér lærum af sögu liðna tímans. Þegar eg svo lít yfir sögu kirkjufélags vors, finnst mér eg megi um hana hafa orðin, sem skáldið leggr Móses í munn, þegar Móses stóð á dauðadægri á fjallstindinum og horfði yfir liðna æfi og sagði um hana:

,,Auðug af mótlæti, auðugri' af synd,
auðugust þó af guðs miskunnar lind."

Lofaðr sé góðr guð fyrir hans miklu miskunnsemi! Því hann hefir blessað starf vort og gefið oss sigr. En þegar eg horfi á mótlætið, sem oss hefir mætt, og syndirnar, sem drýgðar hafa verið bæði í þessu litla kirkjufélagi og móti því, þá sannfærist eg um, að mennirnir, sem mótlætinu og syndunum hafa vald-

ið, hafi gjört það af því, að þá skorti anda hinnar kristilegu þjónustusemi. — Hvernig stendr á því, að kirkjuþingsmenn og jafnvel prestar, sem gengu í þjónustu þessa kirkjufélags sem þjónar Krists og safnaðanna, hafa yfirgefið þjónustuna, gjörzt svæsnustu óvinir vorir, og rógbera oss nú og ofsœkja? Eg skal taka upp á mig þá ábyrgð, að staðhœfa það opinberlega, að þeir kirkjuþjónar, sem farið hafa frá oss og snúizt með drambi og vonzku á móti oss, hafi lent í þá ógæfu af því, að þeir ekki höfðu í hjarta sínu hinn kristilega auðmýktaranda, af því þá skorti anda Jesú Krists, sem ávallt og alls staðar krýpr niðr til að þjóna öðrum í bróðurlegum, sjálfsafneitanda kærleika. Skáldið Milton ber fram þá hugsan í skáldverkinu sínu mikla, að djöfullinn hafi heldr kosið að *ríkja* í helvíti en að *þjóna* í himnaríki. Mannleg náttúra er sorglega rík af þessari djöfullegu tilhneiging. Þess vegna yfirgefa menn stundum það, sem þeir vita að er gott, og hverfa að því, sem þeir ávallt hafa álitið illt. Mönnum er að eðlisfari jafn-ógeðfellt að þjóna öðrum og beygja sig fyrir öðrum eins og postulunum var það ógeðfellt að þvo fœtr hver annars. Og mönnum, jafnvel mönnum í hárri stöðu, hættir við hinu sama og því, sem henti postulana, að metast á um það, hver sé mestr — ef ekki í orðum, þá í hugsunum. Þessi veikleiki, þessi synd, hefir valdið kirkjufélagi voru miklu mótlæti. — Horfi þá allir nú á Jesúm, þar sem hann er að þvo fœtr lærisveinanna, og læri af honum, því hann er hógvær og af hjarta lítillátr. Engum er það eins nauðsynlegt að hafa jafnan fyrir augunum þessa mynd meistarans eins og oss prestum og umboðsmönnum Krists. Brœðr! Lærum að telja oss það mestu sœmdina að *þvo hver annars fœtr*, að þjóna hver öðrum og brœðrunum í auðmýktar-anda Krists.

Og enn er það eitt í þessu sambandi, sem eg vildi bróðurlega mega minna alla kirkjuþingsmennina á. Náskyld hrokalundinni, sem aldrei er fáanleg til að þjóna öðrum, er eigingirnin. Til munu dœmi þess í sögu kirkjuþinganna undangengnu, að nokkur rígr og metingr hafi gjört vart við sig, beinlínis eða óbeinlínis, leynilega eða opinberlega. Þessi metingr hefir ávallt stafað af því, að vér þá höfum verið fyrst og

fremst að hugsa um það, hver um sig að hlúa sem mest að hinum sérstöku reitum sjálfra vor án tillits til annarra. Millum vor hafa stundum verið dregnar ímyndaðar og óeðlilegar „línur", og vér höfum skifzt um þær og hver um sig viljað draga sem mest af gœðunum inn fyrir sína „línu". En þetta er ekki að þjóna. Þetta er ekki að þjóna heildinni. Þetta er þröngsýni, smásálarskapr og eigingirni, ósamboðin Krists þjónum, sem það eitt mega hafa fyrir augunum að þjóna Kristi og efla hans ríki, hvað sem persónulegum hag sjálfra þeirra eða samfélaga þeirra líðr. Einnig í þessu þurfum vér að læra af Jesú, læra að þjóna, ekki sjálfum oss, heldr hver öðrum.

Og loks vil eg aftr minna á ágreininginn meðal lærisveinanna og hugsunarhátt þann, sem Jesús leiðrétti með því sjálfr að þvo fœtr þeirra. Vér erum víst allir, kærir brœðr, þessum sama veikleika háðir. Vér erum hörundsárir, uppstökkir, og tökum oss nærri allt það, sem oss finnst á einhvern hátt skerða persónulega virðing vora. Oss hættir við að búa oss til ástœður fyrir að láta oss þykja, og vér misskiljum hver annan oft; og þegar oss greinir á um eitthvað, ætlum vér stundum hver öðrum illar hvatir. Þessar illu tilhneigingar vorar þurfum vér að temja; og ef unnt er, ættum vér að upprœta þær með öllu, vér, sem hér eigum að starfa saman á kirkjuþingi í umboði guðs og heilagrar kirkju. „Látið sama lunderni vera í yðr, sem var í Jesú Kristi"—segir einn postulinn. Látum það vera orð til vor talað og vinnum hér saman með lundarlagi frelsarans, sem hógvær og lítillátr varði öllu lífi sínu til að þjóna öðrum mönnum og hefir hér í textanum gefið oss svo fagrt eftirdœmi, svo vér breytum eins og hann breytti.

Guð gefi oss þá hinn auðmjúka anda og hugarfar Jesú Krists. Og hann, sem af lítillæti sínu forðum þó fœtr lærisveina sinna, hann þvoi oss nú alla hreina af misgjörðum vorum áðr en vér göngum hér að hinu heilaga borði hans til að meðtaka hinn blessaða líkama hans og blóð.

Og gefi það góðr guð, að vér í öllu starfi voru hér á þinginu stöðugt höfum fyrir augum vorum hann, sem krýpr við fœtr lærisveinanna og þjónar. Þá mun guð staðfesta verkin vorra handa og vér munum sjálfir finna unað og sálarfrið

fyrir það að þjóna, með sjálfsafneitan og auðmýkt, fyrst og fremst sjálfum frelsara vorum og meistara og svo einnig bræðrunum öllum.

Sé það sameiginleg bæn vor allra, þetta: Drottinn, gef mér að geta kropið niðr til að þvo fætr bræðra minna! Í Jesú nafni. Amen.

## Kvittan

frá Jóni Bjarnasyni, ritstjóra „Sam."

Grein minni í Marz-blaði „Sam." um hina „hærri kritík" hefir séra Jón Helgason svarað í blaði sínu „Verði ljós!" í Júní. Hann fellst þar algjörlega á þá yfirlýsing mína, að eg sé alls ekki bær um það að dæma, hvort vísindamennirnir, er hann hefir vísdóm sinn frá um tilorðning Mósesbókanna og annarra gamla testamentis rita, hafi í aðalefninu rétt fyrir sér. Eg sagði, að stórkostlega mikið vantaði á, að eg hefði þann lærdóm, sem til þess útheimtist, að kveða upp um það mál nokkurn skaplega rökstuddan dóm. Þessari játning minni er hann í alla staði samþykkr. Hitt þar á móti vill hann með engu móti kannast við, sem eg líka leyfði mér að halda fram, að ekki heldr hann, séra Jón Helgason sjálfr, hafi nógu mikla þekking á þessum sérstöku biblíufræðum til þess að geta komið þar fram sem áreiðanlegr dómari. En þó að hann mótmæli þessu áliti mínu á sér hiklaust og taki ekki minnsta tillit til þess, hvernig eg rökstuddi það í grein minni, þá er mér það nóg í ágreiningsmáli því, sem okkar er á milli, að hann samþykkir þá játning mína, að eg sé ekki nógu lærðr til þess að skera úr því, hvort biblíu-kritík sú, er hann hefir aðhyllzt, sé í aðal-atriðunum sannleikr eða ekki. Úr því að eg er ekki nógu lærðr til þess að geta dæmt um þetta efni, er þá nokkur sanngirni og nokkurt vit í því af nafna mínum að ætlazt til þess, að eg játi það, að niðrstaða sú, sem hann hefir komizt að í biblíufræðinni þessari sérstöku, sé sannleikr? Og úr því að hann er því svo hjartanlega samþykkr, að mig skorti lærdóm til þess að geta haft vit á „kritík" þessari, myndi þá ekki mega hafa það fyrir satt, að allr þorri íslenzkra presta og

guðfræðinga, þeirra sem nú eru uppi, sé líka í augum hans of lítið lærðr til þess að ná sjálfstæðri skoðan á máli þessu og greina þar rétt frá röngu? Og myndi þá ekki einnig mega telja víst, og það enn þá fremr, að kenningar þær um biblíuna, sem séra Jón Helgason kallar „niðrstöðu hinna vísindalegu rannsókna", sé samkvæmt hans eigin skoðan skilningi óskólagenginnar alþýðu ofvaxnar? Og ef hann neyðist til að játa þessu, myndi þá ekki afleiðingin af þeirri játning hljóta að verða sú, að hann hafi í rauninni ekkert erindi átt með þessi háu vísindi sín fram fyrir oss, hina ólærðu, nema ef vera skyldi til þess að sýna með því sinn mikla lærdóm?

Talsvert er af rangfærslum á því, sem eg hefi sagt, í grein séra Jóns Helgasonar. Hann segir t. a. m., að eg gefi í skyn, að vísindalega óhlutdrægni sé að eins að finna hjá trúuðum mönnum. Eg hefi aldrei innt í þá átt. Hitt hefi eg sagt, að biblíu-kritík sú, er hann hefir aðhyllzt, eigi rót sína að rekja ekki til trúaðra guðfræðinga, heldr vantrúaðra lærðra manna, er afneituðu því öllu í kristindóminum, sem vanalega er yfirnáttúrlegt kallað. Og kvað eg það ekki sennilegt, að biblíu-rannsókn slíkra manna gæti nokkurn tíma verið óhlutdræg. Með þessu er alls ekki gefið í skyn, að ekki geti líka verið hlutdrægni hjá hinum mönnunum. Eg vissi vel, að trúaðir menn í kristilegum skilningi hafa marg-oft stórkostlega syndgað í þessu tilliti. En það kom því efni, sem þá var um að ræða, ekki við. Hitt þurfti eg á að benda fyrir þá sök, að séra Jón Helgason vildi, eins og hann vill enn, telja mönnum trú um, að biblíu-kritíkin, sem hann er að berjast fyrir, sé samkvæmt eðli sínu hlutdrægnislaus leit eftir sannleikanum.

Séra Jón Helgason virðist ætla, að mér hafi verið með öllu ókunnugt um hina „hærri kritík" gamla testamentinu viðkomandi þangað til hann í blaði sínu og fyrirlestrinum um Mósesbækrnar, sem prentaðr er í Tímariti Bókmenntafélagsins, tók að opinbera lærdóm sinn um það mál. En það er algjör misskilningr. Mér voru kenningar þær, sem hann heldr fram í því efni, býsna vel kunnar löngu áðr en hann lét opinberlega til sín heyra. Hann hefir ekki komið með neinar nýjar upplýsingar fyrir mig. Nú segir hann hiklaust, að eg

beri svo og svo mikinn ,,óvildarhug til þeirrar vísindalegu stefnu, sem hér er um að rœða". Væri það satt, þá hefði eg vafalaust einhvern tíma á undan honum látið opinberlega til mín heyra um ,,kritíkina", og þá sennilegast til þess að mótmæla henni. En það hefi eg aldrei gjört. Það hafa heyrzt raddir í þá átt frá öðrum í hópi vorum, en ekki frá mér. Hvers vegna myndi eg nú hafa þagað? Af því eg var í óvissu um það, hvort meðmælendr eða mótmælendr ,,kritíkarinnar" hefði rétt fyrir sér. Og sannarlega ætti séra Jón Helgason ekki að furða sig á þessari óvissu minni, því þótt hann segist hafa verið að eiga við þessa sérstöku frœðigrein í samfleytt fjórtán ár, þá kemr það nú upp úr kafinu, að líka hann—sjálfr—hefir býsna lengi verið í sömu óvissunni. Það eru að eins rúm tvö ár síðan hann fór að prédika þetta, sem hann kallar ,,niðrstöðu hinna vísindalegu rannsókna" í blaði sínu.—Í ritstjórnargrein einni í ,,Verði ljós!" frá því í Október 1898 gegn hr. Östlund aðventista-trúboða stendr þessi athugasemd á milli sviga: ....,,ef orðin (um sjöunda daginn í 1. Mós. 2, 3) annars ekki eru skrifuð eftir að hvíldardagshelgin var í lög leidd hjá Ísraelsmönnum og með tilliti til hennar, sem sumir álíta." Af þessari athugasemd má hiklaust ráða, að ritstjórinn, séra Jón Helgason, hafi á þeirri tíð verið í algjörum vafa um það, er hann nú kennir uppruna Mósesbókanna viðvíkjanda svo sem áreiðanlega sannað. Lengra var hann ekki kominn þá í þessum sínum uppáhaldsfrœðum, gamla testamentis ,,kritíkinni". Og það er allíklegt, að hann hefði enn verið í sama vafa um sannleiksgildi ,,kritíkarinnar" eða að minnsta kosti ekkert látið til sín heyra, sem benti til þess að hann væri laus við efasemdir sínar um þær kenningar, ef hann ekki mjög skömmu síðar hefði fengið trúarstyrking úr óvæntri átt og hvöt til að gjöra almenningi kunna hina nýju vísindalegu sannfœring sína. ,,Ísafold" kom 21. Desember 1898 með ritstjórnargrein um hin kirkjulegu tímarit vor Íslendinga. Var þar mjög vel og vinsamlega um þau talað. En seinast í grein þeirri kom þetta:

,,En eitt er það, sem að öllum þessum ritum má finna. Þau hafa enn með öllu gengið fram hjá þeim skoðana-bylt-

ingum ritningunni viðvíkjandi, sem á síðustu áratugum hafa orðið í hugum hinna yngri guðfrœðinga og margra gamalla líka. Með því hafa þau, að því er vér erum sannfœrðir um, ekki að eins svift sjálf sig fjölda lesenda allt fram að þessu, heldr og látið undir höfuð leggjast að veita lesanda sínum mikilvæga aðstoð bæði í efasemdum hans sjálfs og viðreigninni við þá, sem á móti mæla.—Sjálfsagt stafar nú þessi þögn sumra kirkjuritanna af ótta við, að þær umrœður, sem hér er átt við, myndi vekja nýjan glundroða. Sú hefir líka orðið afleiðingin af hverjum nýjum sannleika, sem mannkynið hefir eignazt. En að lokum hefir sannleikrinn samt meira styrkingarafl en allt annað, veitir öruggari festu en öll viðleitni til að leyna honum, hvort sem sú viðleitni er fólgin í ákveðnum, starfandi tilraunum, eða aðgjörðaleysi og þögn.“

Þetta í „Ísafold“ virðist hafa orðið vini vorum séra Jóni Helgasyni eins og ný opinberan, og jafnframt sem ómótstœðileg lögeggjan til þess að koma nú fram hiklaust sannfœrðr um áreiðanlegleik „kritíkarinnar“ og „hvergi hræddr hjörs í þrá“. Í Febrúar 1899 tekr hann til í blaðí sínu að rita um „þversagnir og missögli“ í ritningunni. Og með því er teningunum kastað. Í Marz og Apríl sama ár ritar hann um innblástr ritningarinnar. Og í Júní greinina: „Eigum vér að þegja?“ Enginn minnsti vafi getr því leikið á því, að hinn tilfœrði greinarpartr úr „Ísafold“ hefir tekið óvissuna frá séra Jóni Helgasyni og hleypt honum á stað.

Út af fyrir sig er nú ekkert út á það að setja. Hitt þar á móti er stór-vítavert af honum, að koma fram, eftir að hann á þennan hátt hefir snúizt, með öðru eins yfirlæti, lærdómsdrýgindum, getsökum, brigzlum og fyrirlitning eins og hann hefir síðan gjört andspænis þeim brœðrum sínum, sem annaðhvort enn eru í sömu óvissu og hann var áðr í máli þessu eða hafa þar komizt að sannfœring gagnstœðri núverandi skoðan hans. Það er eins og vér allir höfum verið skyldir til að trúa á sannleik „kritíkarinnar“ undir eins og hann var þar orðinn trúaðr og var um það opinberlega búinn að láta til sín heyra. Áðr var ekki neitt tiltökumál, þótt vér þegðum um það mál og værum í óvissu. Og þeir, sem áðr mótmæltu „kritíkinni“, máttu það líka þá að ósekju. En eftir að hann hafði talað, þá var þögn og óvissa annarra orðin þeim synd, hvað þá heldr

það, ef einhver af fullkominni sannfæring áræddi að vefengja hina svo kölluðu ,,niðrstöðu hinna vísindalegu rannsókna''.

Menn veiti þessu til skýringar athygli ýmsu orðalagi, sem séra Jón Helgason hefir látið sér sœma í ritgjörðum sínum gegn andstœðingum sínum síðan hann gjörðist talsmaðr hinnar ,,hærri kritíkar''. Í ,,V.l.!'' 1900 á bls. 73 stendr: ,,það stendr í sambandi við algjört þekkingarleysi þessara manna'' o. s. frv. Á sömu bls.: ,,þeir sjá hvergi—auðvitað af því að þeir vilja ekki sjá—merki mannshandarinnar á neinu.'' Og enn fremr á sömu bls.: – – ,,kenning, sem er svo vitfirringsleg, frá hvaða hlið sem hún er skoðuð, að naumast nokkur maðr með heilbrigðri skynsemi myndi dirfast að bera hana fram opinberlega''. (Hér er að rœða um gömlu kenninguna um innblástr ritningarinnar eins og að undanförnu hefir frá henni verið gengið í barnafrœðum kristinnar kirkju, þar á meðal í kveri séra Helga heitins Hálfdanarsonar, föður séra Jóns). Á bls. 155 í sama árg. blaðsins segir hann um það, er séra Björn B. Jónsson í fyrirlestrinum um innblástr ritningarinnar heldr því fram, sem ávallt að undanförnu hefir kennt verið í kirkjunni, að ritningin öll sé guðinnblásin bók: ,,þetta gjörir höf. þvert á móti allri heilbrigðri skynsemi'' o. s. frv. Og á bls. 75 enn í sama árgangi stendr þetta: ,,Vér erum sannfœrðir um, að það myndi takast (ɔ: að séra Friðrik J. Bergmann opni augu þeirra embættisbrœðra sinna, sem hér vestan hafs eru á öðru máli) svo framarlega sem þar er ekki við þá menn að eiga, sem ekki *vilja* sannfœrast.'' — Í greininni um ,,trú og vísindi'', sem stendr í ,,V.l.!'' frá því í Febr. þ. á., er þeim mönnum kirkjunnar, sem amast við nýjum kenningum á svæði vísindanna— og þar er augsýnilega átt við þá, sem andœfa vilja hinni ,,hærri kritík'' — borið það á brýn, að ,,staðfesta'' þeirra sé ,,ekkert annað en andleg þrjózka og þverhöfðaskapr, sprottinn af leti og makindaelsku''. — Í upphafsþætti ritgjörðar séra Björns B. Jónssonar um ,,biblíufrœðina nýju'', þeim er birtist í Janúar-blaði ,,Sam.'' þ. á., voru tilfærð orð eftir dr. Green, víðfrægan guðfrœðing hér í Ameríku, um skaðvæni ,,kritíkarinnar''. Orð dr. Green's segir nú séra Jón Helga-

son í „V.l.!“, núveranda árgangi bls. 92, sé ekkert annað en „illgirnislegr sleggjudómr, ósamboðinn menntuðum manni“, enda lætr hann þess með djúpri fyrirlitning getið, að séra Björn hafi þau eftir „einhverjum Ameríku-guðfræðing“, sem einmitt fyrir þá sök, að hann er hér í álfu upprunninn, ekkert sé að marka. Vera má, að dr. Green hafi skjátlazt í áliti sínu á „kritíkinni“, — um það áræði eg ekkert að segja, en að hæðast að lærdómi hans og frægð, sem hvorttveggja er fyrir löngu viðrkennt um Þýzkaland hið lúterska þvert og endilangt, það er meira en varasamt fyrir þá, sem í guðfræðislærdómi aldrei ná þangað með tærnar sem hann hafði hælana, þó þeir verði eins gamlir og Metúsala. Og eigi síðr varasamt að tala með fyrirlitningartón um hina vísindalegu guðfræði eða hin guðfræðislegu vísindi Ameríkumanna yfir höfuð, því sannarlega standa þeir þar ekkert að baki bræðrum sínum í norðrálfunni. Og að því er sérstaklega snertir skilyrðin fyrir því að hafa vit á hinum vísindalegu rannsóknum gamla testamentisins, þá leyfi eg mér að tilfæra hér nokkur orð eftir Howard Osgood, höfuðmanninn við endrbótina á hinni ensku biblíuþýðing, sem nú er verið að gefa út í Bandaríkjunum: „Í hundrað ár hefir nám hebreskrar tungu verið stundað af hinu mesta kappi í Ameríku, og nafnaskrá þeirra manna, sem hér í álfu hafa náð fullkomnu valdi yfir þeirri tungu allt frá dögum Stuarts*), er mjög löng. Orðbækr, mállýsingar, textaskýringar og ritgjörðir um einstakleg efni gamla testamentinu viðvíkjandi eru orðnar svo margar, að það má teljast álitlegt bókasafn. Allt þetta er mönnum austan Atlanzhafs, að fáeinum bókfræðingum undanskildum, eins ókunnugt og Mið-Afríka var mönnum ókunn fyrir fimmtíu árum. Þeir hafa aldrei rannsakað þetta. En oss er sagt af þeim, sem á þessum tíma vita um kennendr og nemendr í hebresku og grísku á meginlandi Evrópu, á Bretlandi og í Ameríku, að tala hvorratveggja sé hærri hér í landi en í öllum löndum norðrálfunnar samanlögðum. Og þeir segja enn meira, segja það, að engin menntastofnan austan Atlantzhafs þoli samanburð við suma af skólum vorum með tilliti til tækifæra þeirra, er þar bjóð-

*) Moses Stuart, merkr hebreskufræðingr í Andover, dáinn 1852.

ast, til þess að læra hebresku og grísku til hlítar.“ Þannig farast þeim manni orð nú fyrir fám mánuðum (Sunday School Times, Philadelphia, 5. Janúar 1901). Og þó að séra Jón Helgason hristi líklega yfir þessu höfuðið í djúpri fyrirlitning, af því það kemr frá Ameríku, þá eru orðin öðrum mönnum eins eftirtektarverð fyrir því. — Í annan stað tók séra Björn það fram í sama þætti ritgjörðar sinnar, að „úti á heimshöfunum sé aldan (ɔ: hin sérstaka „hærri kritík“) nú einmitt farin að hjaðna all-víða, þegar hún nú loksins rís við strendr Íslands“. Þetta segir séra J. H. beri svo „sorglegan vott um vanþekking“ á þeim efnum, sem um er að ræða, að það virðist lítt girnilegt að fara að eiga orðastað við oss hér vestra um þetta mál.

Meira af orðalagi hans í deilugreinum hans út af „krítíkinni“ þarf ekki að tilfæra. Það, sem á hefir verið bent, nægir til þess að sýna, í hverjum tón hann talar. Og víst er það, að ef vísindi þessi skyldi hafa sömu áhrif á annað fólk sem þau virðast hafa haft á séra J. H., þá vex ekki hógværðar-andinn í kirkjunni við það að setja þau þar í hásæti. En þann anda ríðr oss öllum mönnum kirkjunnar um fram allt á að eignast á þessum tíma í ríkum mæli.

---

Hr. *Ólafr S. Þorgeirsson*, 644 William Ave, Winnipeg, er féhirðir „Sam.“

---



---

„SAMEININGIN“ kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. —Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada. — Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstjóri), Friðrik J. Bergmann, Ólafr S. Þorgeirsson, Rúnólfr Marteinsson og N. Steingrímr Þorláksson.

---

PRENTSMIDJA LÖGBERGS, — WINNIPEG.